{Þess íslendska evangeliska}
{Smábóka-Fèlags rit No. 42.}

# Gledilig tídindi um Guds-Ríki, og þess útbreidslu, í heiminum.

Ad komast ad raun um gódan framgáng Jesú Trúarbragda medal þeirra þjóda, sem ádur setid hafa í dándans skuggadal, er sálargledi hvørjum þeim, er í sannleika elskar Jesúm, og sínar sam-endurleystu medmanneskjur. Þess-vegna vona eg mig ad géfa Lesendum mínum orsøk til sannrar gledi, med ad skýra þeim frá nockru því, sem ad þessu háleita efni hnýg-ur, og ad þeir álíti Fréttir þær, sem þvíllíkt áhræra, einhvørjar hinar ánægjusomustu og uppbyggiligustu allra Frétta, sem fyrir eyru manns borid géta.

Nú þar sem siiptanir þær á vorum døgum, sem nefnast Missións- og Biblíu-Fèlog, ásamt fleirum ødrum, eru einkum medøl þau, fyrir hvør ad Guds Ríki útbreid-

ist og eflist í heiminum, þessvegna vil eg, med Guds adstod, skýra nockud frá þessháttar Stiptunum, og sýna, hve mikid gott þær verkad hafi, og verkad géti.

Ordid Missión þýdir Sendi-for og Missiónari Sendimann. Enn sérílagi brúkast ordid um þá menn, sem útsendir eru til ad boda christna trú þjódum þeim, sem hana ecki ádur hast né heyrdt hafa. Missiónari þýdir þá allt hid sama og Postuli; því Postularnir vóru þeir fyrstu Missiónarar, sem Drottinn vor Jesús útsendi sjálfur, til ad boda sinn trúar-lærdóm, þegar hann sagdi: „Farid út um allan heim, og predikid Evangelíum allri Sképnu!" Menn vita og af Gjørníngabók Postulanna, hvörsu þessir fyrstu Drottins Erinds-rekar báru sig ad, hvíllíkann trúskap þeir sýndu í hans verki, og hvörsu blessunar-ríkan ávöxt atburdir þeirra færdu. Fyrst eptir Postulanna daga héldu christnir söfnudir því fram, ad útsendá kénnendur til heidínna þjóda, og þó Christs trúar játendur mættu á þeim tímum stærstu ofsóknum, atorkadist þó dásamliga útbreidsla þeirrar heil. trúar. En þegar nú framlídu stundir, og Christindóms-urinn tók ad kólna, og med villulærdómum ad blandast, fór þessari gudligu drift og svo hnignandi; og jafnvel útvortis atburdirnir enn nú vidhéldist, var þó tilgángurinn eing-

anveigin svo hreinn, sem vera skyldi. Því eptir það Kóngar og Biskupar tóku að brúka þetta til að auka með sína jarðnesku makt og myndugleika, var aðferðin, opt í bland, Christinsdómsins anda ósambóðin, einkum nær kúgunum og lockunum var beitt; svo margir játuðu því þá með munninum, sem þeir hötuðu í hjartanu. Á 9du öldu var Christni boðuð í Danmörku og Svíþjóð, en með byrjun þeirrar 11tu var hún lögtekin hér á Íslandi. Nú þó hjá-trú og hindurvitni ýmislig spilltu Christindóminum mjög svo í þá daga, svo þetta var ecki nema lítil skýma hans fyrst í stað, var hún þó lángt betri enn eingin, og opnaði dyr fyrir því fullkomnara ljósi á sínum tíma, hvört eð uppraun eptir það Endurbót Trúarbragðanna hófst af Lúther og öðrum Guðsmönnum, með byrjun þeirrar 16du aldar. Eptir sem nú christilig trúarbrögð hreinsuðust, og Sálir manna líka sem af nýu ljósi upplýstust, tóku þær smámsaman að vermast af sönnum kærleiks-il til sinna meðmanneskja, og taka það sárt, að þær ecki feingju notið þess sama ljóss og lífs, sem þeir sjálfir, út af brunni Ritníngarinnar uppausið höfðu. Samt var ecki mikil framkvæmd í þessu sýnd meðal þeirra sem hreinari Christni tekið höfðu, allt framundir byrjun þessarar

19du aldar. Þók þegar einstaka Söfnudir und= antakast, t. d. sá Genfiski, sem á 16du öllduseudi 14 Missiónara til Ameríku, og tvö Chri= stindóms útbreidslu= og eflíngar=félög stofnud á Englandi á 17du öldu; líka svo sú lofsverda Missións = stiptan, sem sá elnasti medal allra kóróuadra höfda, Kóngur Fridrik hiun 4di í Dan= mörk hóf öndverdliga á 18du öldu, til ad boda heidíngum í Tranqvebar i Austur = Indíum christina trú, og sídan á Grænlandi, eptir upp= örfun þess góda Prests H. Egedes; ad ógleymd= um þeim merkilegu atburdum þess Mæhriska Brædra=Safnadar (hvör Söfnudur skinid hefir sem ljós í Christninni, og þó hann opt hafi átt þúngum kostum ad sæta, hefir dásamligustu kappsmuni sýnt, í ad vid = halda og útbreida trúna á Jesúm í heiminum); þegar, seigi eg, þessir einstöku Safnadir, og nockrir fleiri, eru undantekuir, hefir allt of lítil almenn gángskör gjörd verid ad útbreidslu Christindómsins, allt til sídustu aldamóta. Alkunnugt er, hvörsu Evrópa rétt sem sveimadi í sínu eigin blódi, medan sú Franska Stjórnarbilting og afleid= íngar hennar á ferdum vóru; og hvad enn sárara var, hvörsu ad Jesú trúarbrögd tóku ad verda herfilliga ofsókt og umsetin ad þeirra eigin játendum, svo þau sýnduft aldrei nær sínum undirgángi, enn kríngum nærstlidin aldamót;

en þessar líkamligu og andligu þjódanna hørmúngar sýnast hafa þó ordid ad medali í Guds hendi til ad vékja eptir-þánka þúsund Christinna í tilliti til sinna trúarbragda, svo ad neisti sá, sem ádur lá hálfdaudur í øskunni, er nú ordinn hjá mørgum þjódum ad ljósum loga, sem útbreidir sína geisla um alla vøldu verøldu. Biblían, sem ádur vár af mannligri skynsemi forsmád, er nú hafin til sinnar tignar, og skynseminni kénnt, ad heidra hana og varpa sér undir hennar trúar løgmál. Þessvegna hafa nú stiptud verid Féløg á Féløg ofan hjá flestum þjódum, sem christnar kallast, til ad útbreida hana og hennar lærdóma um alla heims-bygd, og undireins til ad útsenda kénnendur ad uppfræda, eptir henni, og uppvekja þær villtu þjódir, Gydínga, Tyrkja og heidíngja, og þetta allt med stærsta ómaki og kostnadi. Sídan byrjun þessarar 19du aldar eru upprisin fyrir víst meir enn 1000 Biblíu-Féløg, sem eingin ádur vóru, og Missíóns-Féløg eru ordin fullt 250, hvar af 100 hafa fyrir víst ankist sídan um nærstlidin aldamót. Med øllu þessu vantar þó heiminn óseigjanliga mikid til ad fá þørf sína fyllta af þessu himna-braudi; því allt frá þeim tíma, fyrir 300 árum, ad byrjad var ad prenta Biblíur, hafa vart meir enn 25 milliónir prentadar verid, allt til þess fyrir rúmum 20 árum, ad Biblíu-Félög

hófust; og þó madur setji, ad sídan vidbætst hafi um 6 milliónir, verda þad þó ecki meira enn 31 millión alls; og þó madur láti svo heita, sem eptir sé ó=eyddur fullur helmíngur af øllum þessum heil. bókum, yrdi þó ecki meira til enn um 16 milliónir handa 1000 milliónum Manneskja, sem meinast í heimi þessum til ad vera. Og þetta er þó þad lífsins=brand, sem oss Christnum er trúad fyrir, og yfir hvørt ver erum, af Gudi, til Ráds=manna settir, til ad útbýta því vorum med=brædrum í heiminum, sem af skorti þess er aud=ligur daudi búinn. O hvørsu mikla skuld á heimurinn inni hjá oss! Hvørsu mun Húss=fødurnum gédjast ad vorri Rádsmensku!

Nú þó útbreidsla Christindómsins um heiminn hafi, bædi fyrir ofsóka og óréliga at=burdi Christinna, ordid svo lángsøm og lítid framgeing, hefir hann samt alltid nockud framar aukist enn vanast, og veldi hans þanid sig æ vídar og vídar út. Hvad mikid tala hans játs=enda hafi øld eptir øld, sídan frá Postulanna døgum, vøxtum farid, sjest af fylgjandi Tøblu:

Tala Christinna meinast hérumbil verid hafa, vid:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| endalok | 1tu | alldar | $\frac{1}{2}$ | Millión. |
| — | 2 | — | 2 | — |
| — | 3 | — | 5 | — |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| endalok | 4du alldar | | 10 | milliónir. |
| — | 5 | — | 15 | — |
| — | 6 | — | 30 | — |
| — | 7 | — | 25 | — |
| — | 8 | — | 30 | — |
| — | 9 | — | 40 | — |
| — | 10 | — | 50 | — |
| — | 11 | — | 60 | — |
| — | 12 | — | 70 | — |
| — | 13 | — | 75 | — |
| — | 14 | — | 80 | — |
| — | 15 | — | 100 | — |
| — | 16 | — | 125 | — |
| — | 17 | — | 155 | — |
| — | 18 | — | 200 | — |

Hér af er þá audsjed, ad, vid nærsilidin Alldamót, hefir ad eins $\frac{1}{5}$ partur mannkynsins verid ad nafninu christinn ordinn, svo 800 milliónir hofdu enn þá ecki vidurkénnt heimsins Frelsara; því þegar

| | |
|---|---|
| Gydíngar reiknast hérum . . . | 2½ mill. |
| Mahómetanar edr Tyrkjar . | 150 — |
| og gudlausir Heidíngjar . . | 647½ — |
| verdur tala þeirra ó=christnudu | 800 mill. |

og þegar fyrir þá, sem christnir

kallast, bætast vid, eptir ádur
settri tølu . . . . . . 200 mill.

uppkémur medaltala heila manns-
kynsins . . . . . . . 1000 mill.

Nú er þó ekki svo vel, sem allir þessir, svonefndu christnudu, sén réttrar trúar; því í tølu þeirra innilykjast.

1. Róman-cathólskir edur Pápistar, hvørra Trúarbrøgd eru magnliga spillt; þeir teljast hérumbil . . . . . . . . . 90 mill.

2. Grísk-christnir, hvørra Trú er lítt hreinni enn Pápista, um . 35 —

3. Próteſtantar, þad eru allir þeir sem tekid hafa fyrir sig hreinni Trúar-grundvøll, eptir heil. Ritníngu 75 —

uppkoma þá, eins og ádur er sett 200 mill.

Í tølu svokalladra Protestanta innilykjast Reformeradir edur Calvínistar, af hvørjum lángflestir eru; því nærst Lutheranistir og adrir smærri Flockar, svosem Baptistar, Qvækarar, enda Socinianar og fl.

Ut af øllu þessu blasir þá bert fyrir augum, hve óseigjánliga mikid andligt akurlendi er enn nú til í heiminum, sem annadhvørt er hreint óſád med Guds ørda sædi, svosem hjá

Heidíngjum og Tyrkjum, edr útfædld mein-blandad ýmsu illgresis fræi, svo sem hjá Pá-pistum og þeirra líkum, (ad eg ecki nefni þá heimuglígu bræk hjá sjálfum þeim, hjá hverjum þó ad nafni heita á ad drottni hreinsud Trúar-brøgd), og hvílík skylda og skulld liggur þá á oss Christnum, í tilliti til Christindómsins bædi útbreidslu medal heidíngja, Tyrkja, og Gydínga, og hreinsunar medal sjálfra vor.

Ad vísu hefir tala Christinna teluverdt aukist sídan þessi 19da elld hófst, þar ed christnar þjódir hafa eptir sem ádur, er sagt, tekid betur enn ádur ad gégna skyldu sinni, ad útbreida Evangelium, hverjum þeirra atburd-um fylgt hefir þreifanlig Guds blessan, nærst því sem var á Postulanna døgum; þar dæmi eru til, ad jafnvel heil Kóngsríki hafa, medal heidíngjanna, umvendst til christiligrar trúar; ad margir medal Tyrkja hafa yfir-géfid þann falska Spámann og svarid sig undir Christs krossmerki, já, ad sjálfir Gydíngar hafa hér og þar, miklu betur enn ádur, viljad géfa gaum ad Evangelío út af Jesú af Nazareth, og sumir hyllt hann opinberliga fyrir sinn Messíam, og loksins hafa nockrir catholskir Søfnudir inn-geingid trúar sam-félag med þeirri endurbættu Kyrkju, um hvad allt þau árligu Frétta-skrif frá Missíóns- og Biblíu-Félegum ljósast vitni

bera. Allt þetta hrópar hárri röddu til vor allra, sem svarist hafum til ad vera Christis Strídsfólk, ad vér med allri alúd styrkjum til hans Ríkis útbreidslu, þar þess sigur-tími yfir heiminum sýnist í námd ad vera, ef vér í sigurvinníngarinnar launum viljum hlutdeild taka. Skyldum vér eptir oss telja ómaki og kostnadi til slíks ad verja, sem vér vitum Gudi vera hid þægiligasta verk, hvar ed kostad hefir því allradýrmætasta til mannkynsins Frelsunar, ad fyrra bragdi? O, ad allir vildu þetta réttiliga sér fyrir sjónir setja! Eingin þjód í heiminum hefir eins mikla atburdi og útlag til þessa gjördt, sem hin Engelska, nú um stundir; hvarrar dæmi sett hefir og svo líf og drift í adrar þjódir, til ad rádast í þad sama.

Lítid sýnis-horn til þess mikla kostnadar, sem Enskir gjöra til uppbyggíngar Guds kyrkju, sýnir eptir-fylgjandi Skýrsla:

„A einasta einum árs-hríng, frá 1 Maii 1820 til þess í sama mund 1821, hljóp útgift sú, sem 15 slags gudlig Félög, í sjálfri Lundúnaborg, giördu til Christindómsins eflíngar, sem fylgir:

| | | Ríkisk Gyllini. |
|---|---|---|
| 1. | Þess Bretska og útlendska Biblín-Félags uppá . . . | 980694 |

| | R. Gyll. |
|---|---|
| 2. Félagsins til útbreidslu Christindóms-þeckingar, uppá . . | 606100 |
| 3. Hins Biskupliga Missíóns Félags | 343200 |
| 4. Þess Lundúnska Miss. Félags | 287914 |
| 5. Þess Methódiska Félags . . | 247500 |
| 6. Þess Baptistiska Félags . . . | 145200 |
| 7. Félagsins til útbreidslu Evangelii | 143200 |
| 8. Félagsins til umvenduuar Gydíng. | 118679 |
| 9. Uppfóstnrs Félagsins . . . . | 88000 |
| 10. Þess andliga Smárita Félags . | 83171 |
| 11. Skóla Félagsins fyrir Irland . | 77539 |
| 12. Miss. Félags þeirra Mæhrisku Brædra . . . . . . . . | 55000 |
| 13. Bibl. Félagsins fyrir Strídsog Sjó-menn . . . . . | 25828 |
| 14. Þess Bretska og útlendska Skóla Félags . . . . . . . . | 22385 |
| 15. Félagsins til útbreidslu christiligra Barnabóka . . . . | 21923 |
| Summa | 3,246133 |
| | D. speciur. |
| Sem verdur eptir vorum Reikníngi jafnmikid, sem *) | 1,298453⅕ |

*) Þegar 1 Gyll. er á móti 2 Rikisortum. Þessi ærna útgift verdur nær 5 sinnum meiri,

Öll þessi ógna Summa er frívilljugar gjafir frá Landsins Fólki, til þess góda augnamids, og er meira enn helmíngur þar af géfinn af fátæku erfidis-fólki, sem dregur vid sig naudsynjar sínar, fyrir gjafanna skuld, edur erfidar einni stundu leingur. Vid þetta hafa þó gjafir til Fátækra og til annara líkamligra naudsynia, ecki einasta eingu minni ordid, heldur er, af sönnum vitnisburdum, augljóst, ad þær gjafir hafi, á sama tímarúmi, verid meiri enn tvøfaldar, vid þad, sem þær ádur verid höfdu; svo hitt hid gudliga útsædi hefir aflad ríkugligrar uppskéru landsins fátæka fólki. Sjáum hve mikla kraptur Christindómsins fær af stad komid! Gud er í þeim veiku máttugur!"

Næst Englandi geingur Rússland í þessari lofligu drift, svo Þýdskaland, þá Fránkaríki, Preussen, Holland, Svíþjód og Danmørk; svo er í hinum heimsins álfum, einkum í Ameriku, sami driftar-andi merkiliga tekinn ad vakna. Serilagi hefir þad Danska Biblíu-Félag í Kaupmannahøfn — hvørt stofnad var 1815 — útgéfid fyrir víst meir enn 100 Þúsundir af

---

enn allt jardagóts á Íslandi kostar; sem eptir Klyósts 1 árgángs bl. s. 60 metst 528,000 Rbd. R. S. vyrdt.

Biblíum og Nýa-Testamentum *); þad hefir mørg hjálpar-Féløg innanríkis, sem sífeldt fjølga. Fyrir utan Missíón þá, sem vor gódi Kónúngur, eptir sinna Forfedra visu, kostar til Austur-Indía og Grænlands (hvar um ádur gétid er) er nýliga uppristd eitt Missíóns-Félag í grend vid høfud-stadinn, fyrir gudliga Framkvæmd þess merka Prests B. F. Roune í Lyngbý, sem dásamliga fer í vøxt, og þar ad auki stjórnar sami Gudsmadur einn Biblíu- og Smárita-Félagi, med gódri Luckn, hver hann líka svo stiptad hefir.

Þad er sídur allra þess-háttar Félaga, ad halda vissar hátídligar samkomur einusinni edur optar á hverju ári, og eru þá haldnar heilagar rædur, til ad sýna þvílíkra Félaga Gudi dyrdliga og manukyninu allra-gagnligasta augnamid, og sídan sannar Frásagnir um þeirra dásamliga

*) Þegar þad Bretska og útlendska Biblíu-Félag hafdi stadid 17 ár, hafdi þad útgéfid um $3\frac{1}{2}$ millión af Biblíum og N. Testam. En þegar þad danska Bib. Fel. stadid hafdi 9 ár, hafdi þad utgéfid $\frac{1}{10}$ p. Milliónar; nú eru um 20 milliónir manns í því Bretska, en ad eins $1\frac{1}{2}$ mill. í því Danska Ríki; hafdi þá hver 1 mill. manns útgéfid nær jafumíkla tølu árliga, í bádum Ríkjunum.

framgáng og verkun í heimiuum upplesuar. Þetta vekur stakligt líf og drift i margra sálum, til ad fylla flock þeirra, sem þvíllk heilög Sambönd styrkja, og undir eins blæs merkiliga ad neista þess sanna Christindóms, í sálum sjálfra þeirra og annara. Drift þessi hin gudliga vottar sig þá einkum med þrennt slag: fyrst innvortis, med alvarligri ósk og bæn til lifanda Guds, um adstod til þessháttar Stiptana, og ad hann vyrdist sem fyrst ad fylla heiminn med sínu ordi og ótta; þar næst útvortis, med fríviljugum gáfum, minni edur meiri, til eflingar þessháttar fyrir-tekta, og upphvatuningu annara, ad gjörast þeirra adstodarmenn; og loksins knýr drift þessi suma, til ad fórna sjálfum sér til framkvæmdar þess háleita augnamids, ad predika heidnum þjódum Evangelium, enda þó þeir hljóti ecki adeins ad yfirgéfa ættfólk og ódul, heldur og ad taka uppá sig mestu mædu og lífsháska, án þess ad hafa von um nockur laun fyrir þad í þessum heimi, álíka og Postular Drottins á fyrri tímum; til þessa verks eru og heldur eingir adrir hæfir, enn þeir sem sinnislag þeirra hafa.

Tillög eda gjafir til Stiptana þessara géfast af sumum á viku hverri, sumum á hverjum mánudi, sumum á hverju ári; sumir géfa opinberliga, sumir undir huldu nafni. Einkis

gjöf er forsmád, hvad lítil sem er, þegar hún sýnist svara efnum hans. Eru svo Skýrslur árliga samdar og sýndar yfir innkomnar gjafir, hvörsu þær hafi brúkadar verid og hvörn ávöxt fært.

---

Eina af þeim uppbyggiligu rædum, sem á þessháttar Samkomum haldnar hafa verid, vil eg lesendunum til andligrar ánægju, hér til setja sem fylgir *):

## Bæn fyrir Predikun.

O Drottinn! Láttú nú verk þad, sem vér vinna viljum, lukkast vel, og legg sjálfur blessan þína til atburda vorra! Géf mér ad tala, sem þeim er talar þitt heil. Ord, og géf mínum tilheyrendum ad heyra, sem þeim ed heyra þinn guddómligan vilja. Verka þad, ad af þeim minsta verdi þúsund, og ætt af þeim smærsta eitt mektugt fólk, sem erfi jardríki. Drottinn, þú hefir talad þad, þú munt og framkvæma þad, ad þar verda

---

*) Predikun þessi er haldin af ódurnefndum Presti Rønne þ. 16 Junii 1822.

skuli ein hjørd, svo sem þar er einn hyrdir, og ad allar jardarinnar kynkvíslir skuli vegsama þitt heilaga nafn! Bænheyr oss vor Fadir! Fadir vor, þú sem ert á h. og s. fr.

## Textinn var allur sá 60ti Capituli hjá Spámanninum Esaja, lesinn frá upphafi til enda.

„Sá minsti skal verda þúsund, og sá smærsti ad mektugri þjód. Eg Drottinn, eg vil láta þad hastarliga ské, á sínum tíma." Med þessum markverdu ordum endar Himins og Jardar Gud rædu þá, sem vér nýliga uppleſna heyrdum hjá Spámanninum Esaja. En hvør var nú sá minsti, sem skyldi ad þúsundum verda, og hvør sá hinn smærsti, sem verda skyldi voldug þjód? Þad sjest liósliga af sama Capitula, svovel sem af gjørvalli bókinni, hvørja Guds Forsjón, í gégnum þúsundir ára, vardveitt hefir handa oss, inn til þessara merkiligu daga, á hvørjum Spádómarnir svo dýrdliga uppfyllast fyrir vornm augum. Þad var þad litla mustardskorn, sem loksins verda skyldi ad stórn tré; þad var þad litla súrdeig, sem loksins sýra skyldi allt deigid; þad var Guds søfnudur,

sú sanna ásýnilliga Kyrkja, hverrar fyrirmind ad Zíón ellegar Jerúsalem var. Sjá! myrkrid huldi jørdina, og þoka lá yfir ellu Adams fallna kyni. Þá uppraun fyrir eluni litilli hjørdu liósid af hædum; Ljós, sem formyrkvadi Sólarinnar ljóma og ad eingu gjørdi stjarnanna skin; því þad var Drottinn Drottnanna og Kóngur Kónganna, þad var Ljóssins Fadir, sem birti sig í sinni gudómligu dýrd, til þess ad gjøra allan heimsligan vísdóm ad eingu; og þad var ein litil hjørd sem sá hans Dýrd, Dýrd sem Eingetins af Fødurnum. Allareidu hafdi Abraham sied hans dag, og Davíd hafdi eygt hans dýrd; og fleiri af gamla Testamentisins trúndu Forfedrum høfdu gladt sig yfir því himneska liósi, er sig áleingdar opinberadi. Samt sem ádur, nær hann kom til sinna eigin, medtóku hans eiginn hann ecki, því menninir elskudu framar myrkrid enn Ljósid; ad eins ein litil hjørd og audvirdiligt fólk veitti honum vidtøku; og þad sýndist sem myrkrid mundi alltaf hylja jørdina og þokan þjódirnar. En, hvad seigir heil. Andi, sem taladi fyrir Spámannsins munn?

„Sá minsti skal verda sem þúsund og sá smærsti ad mektugri þjód. Heidingjarnir skulu gánga í Guds kyrkju Liósi, og Kóng-

arnir vid þad skin, sem upprunnid er fyrir þeim. Hvar sem madur lítur augum kríngum sig, skulu menn sjá þá flocka sig hópum saman. Þeir munu koma lángt ad, og uppalast í nálægd, svo menn hljóta ad fyllast af furdu og fögnudi yfir þeim mikla fjölda. Afgudadýrkarar munu læra ad færa sínar fórnir þeim einasta sanna Gudi; þeir munu fljúga sem Ský, og sem Dúfur til sinna Vindgluggá. Guds kyrkju-port skulu alltíd opin standa dag og nótt, og eingan = vegin lokud vera fyrir fjölda Heidíngjanna, né fyrir þeirra Kóngum, sem þar vilja leita sér hugsvölunar og hvíldar. Safnadarins Fjendur skulu sigradir verdá, sundurdreifdir og eydilagdir og gledifullt ástand skal á ferdum vera; ástand, sem vottar Drottins Dýrd."

Sjáid, kjæru Tilheyr! svoleidis-fyrir seigir Drottins heil. ord, fyrir meira enn 2 þúsund árum, ad Guds Kyrkja muni útbreida sig, til austurs og vesturs, sudurs og nordurs, og farsæla gjöra alla þá sem sitja í daudans skuggadal. Þad sýndist fyrir manna augum, á dögum Esajæ, víst ecki líta svo út, ad Spádómur þessi mundi uppfyllast; því þá vóru, jafnvel medal fólks þess, er kalladi sig Guds Fólk, hardla fáir, sem lögdu sín eyru við Drottins raustu; og fyrir þá skuld, hlaut hann,

sem hafdi útvalid þá til ad vera sitt fólk, ad typta þá í sinni réttlætis reidi, og láta þá burtu-flytjast í hid babylóniska fángelsi, eptir ad Jerúsalem var rænd, og Zjóns musteri brendt til ösku.

Ney, Chr. Tilh. Þá sýndist víst ecki fyrir mannligum augum, ad Spádómur sá mundi uppfyllast; þad sýndist þá miklu heldur albuid, ad Ljósid mundi eldúngis út af slockna og myrkrid mundi og svo yfirfálla þá einustu ætt-kvísl, sem þeckti heimsins Skapara, og ad ógjæf-an mundi verda almennilig, frá sólarinnar uppgaungu, til hennar nidurgaungu. Og — þó endar Spádómurinn med þeirri hátídligu fullvissun, ad þetta skuli í sannleika rætast! því þad muni ecki ské fyrir veraldliga makt, ellegar fyrir hyggni daudligra manna, heldur fyrir Drottins eigin almáttuga armlegg; fyrir krapt þess, sem útvelur þad sem heimskuligt er, svo hann til skammar gjöri Vitríngana, og þad sem veikligt er, svo hann gjöri þá sterku til minkunar. „Eg, segir Drottinn, eg Drottinn vil láta þad hastarliga ské, á sínum tíma" já, þad er Drottinn sem lætur þad ské. Vid þennan þánka skulum vér alltíd halda oss, vid hann skulum vér þaflátanliga hugga oss og gledja, og af honum skulum vér finna

ævarandi upphvatníngu, til at erfida fyrir Guds-ríkis útbreidslu.

Og nú á þessum deigi — á þessum hátídliga tíma — skulum vér leita oss huggunar og gledi, og líka upporfunar í þeim þánkn, ad þad er Drottinn, sem lætur allt þetta rætast; og yfirvega, hvörsu

A. ad Reynslan siálf sýnir oss, ad þad er Drottinn, sem þetta lætur ské;

B. ad í þessum þánka liggur ánægjanlig Huggun og Gledi, og loksins

C. ad héri er somuleidis kroptug upporfan fyrir oss, ad verka til þess, ad Guds-ríki útbreidist.

Eptir þessari ræd vil eg, M. Tilh. med Guds adstod tala um þad, sem eg þessa stund, mér ásett hefi. O, ad þad verdi honum til heidurs, en oss til heilla! Amen!

A. Reynslan siálf sýnir oss, ad þad er Drottinn sem lætur þetta rætast. Þetta er þad fyrsta atridi, vid hvört vér dvelja viljum fá-ein augnablik.

Þad er, seigi eg, Drottinn, sá eylífi, almáttugi og alvísi, sem lætur sitt Ríki til vor koma, sitt Nafn, medal vor helgast, og

finn Vilja ské; hann sem lætur blessanina breida sig út yfir jardríkis innbyggjara.

Allra tída, og einkum vorra daga eigin reynsla hefir sýndt oss, ad þad sé Drottinn, sem lætur þetta ské. Rétt í þeim svifum, ad þad sýndist, sem ljósid mundi breint slockna, var þad, af óskyniligri hendu, sett á Ljósastjakan.; þegar Konúngar, Fúrstar og jardarinnar voldugu og víru, á=samt med stórum þjódflockum, hrópudu sem allra frekast: „látum oss sundurrífa bøndin, og kasta reipunum frá oss" þá hló hann, sem í hædum býr, ad þeim, seigjandi: „eg hefi þó smurt minn Konúng yfir mitt heil. fjall Zion Ps. 2." Rétt í því ad Guds þecking og Drottins ótti og trú og kjærleiki og hlýdni sýndist ad því komin, ad upprætast, og fjandmenn þess góda hásiøkum hrópudu: „vér høfum sigrad! þá skédi þad, ad hid góda tók þvílíkum framførum, ad þess Elskendur urdu fullir af forundrun og føgnudi. Svo géck þad til strags eptir Esajæ Daga; Fáir edur eingvir heyrdu raustina sem hrópadi; fólkid var sockid í afgudadýrdkun og leiti; Konúngar þess vóru ógudligir; þess stjórnendur vóru Thrannar; þess óvinir n'durrifu og eydilegdu helgidóminn og færdu hans þjóna í hérleidíngu. Þar var nú eingin stadur framar á jørdunni, hvar søfnudur Guds, í samheldi,

gjæti tilbedið fyrir hans augliti, ljósið síndist útslokið vera. En hvenær á gamla Testamentisins tímum hafði það dýrdligar skinið, enn einmidt á medan sú babýloniska herleiding yfir stód? Nær hafði Gydínga-þjódin haft svo márga Spámenn sem þá? og hvenær hafa þessir súngið svo lífliga og ljósliga um Israels Frelsi?

Nær hafa heidíngjanna Konúngar og ásturheims vitríngar á fyrri dögum, eins vel lærdt, sem þá, að tilbidja fyrir Drottins augliti, og að þeckja þann stóra Konúng, hvör á-sídan í tímans fyllíngu, ódlast skyldi heidíngjana að arfleifd og jardarinnar Konúnga til eigindóms? Hvör sjér hér ecki Guds fíngur? Hvör sjer hér ecki grandgjæfilga, að það var Drottinn, sem þetta lét ské? En mun nú hafa geingið ódruvísi til á eptirfylgjandi tímum? Eg vil víkja að eins fátt-eitt hér á, því að fara yfir allt það sem skédi á þeim dögum, gét eg ecki, því þá hlyti eg oflángordur að verda. Hvenær vóru þar færri til, sem leitudu Gudsríkis, enn þá Jóhannes Skýrari hóf að predika í Eydimörku? Og þó skédi það strags þar á eptir, að menn rétt sem herjudu eptir Guds-ríki, og hremdu það til sín. Nær var Sigur hins Vonda voldugri, en þegar Jesús var negldur á Krossins tré? og þó umvendtust á þeim sömu tímum tíu sinnum tíu þúsundir og heilar þjódir

lærdu ad géfa sig sjálfar til „Lifanda og Gudi velþóknanligs offurs." Hvenær var Liósid komid nær því aptur ad útslokna, enn þegar Biskuparnir í Róm hsfdu gjørdt vilja myrkranna Konúngs, med ad forbjóda lestur Biblíunnar? og þó setti Drotrinn á þeim døgum liósid svo dýrdligá á Ljósastjakan, ad þad sást frá einu jardarinnar skauti til annars.

En hverjir vóru nú menn þeir, sem bodudu, „ad Guds-ríki væri nálægt?" hverjir þeir sem hrópudu: „Snúid ydar til Drottins ydvars Guds?" Hverjir vóru þeir ed burtu tóku mæliaskinn, sem settur var yfir ljósid, og varinn af Stjórnendum margra milliona? Vóru þad voldugir Keisarar og Kóngar? Vóru þad sterkar Stríds-hetjur, sem báru sverd og spjót? Eda vóru þad Kyrkjunnar hsfudsmenn og herrar? Eda vóru þad þeir sem eins og Heimsspekingar hsfdu afrekad sér stórt nafn á jørdunni? Ney, einganveiginn! heldur vóru þad kénnendur, sem af flestum ofsóktir vóru og loksins líflátnir.

Þad var einn Skýrari, sem klæddur var fatnadi af úlfbalds-hárum, sem hafdi ólarbelti yfir-um sig, sem át grashoppur og villihunáng; hver ed hrópadi í Eydimørku, en hætti ad hrópa, vegna þess ein lauslát kona beiddist ad fá hsfud hans á diski. Eptir þad var þad

hann sjálfur, „sem ecki hafdi hvar hann kynni höfdi sínu ad ad halla" og sem endti sitt líf midt á millum illrædis-manna; þad vóru á eptir-fylgjandi tímum ólærdir og umkomulausir tollheimtarar og fiskimenn; og loksins, þegar nálgadist vorum tídum, var þad Lúther, fátækur sonur fátæks födurs, maktar- og mindugleika-laus madur, sem ofsóktur var med báli og bannfæríngum. Sannliga — hér meigum vér aptur upphrópa: „Þad var Drottinn, sem þetta lét ské, já, sem lét þad mjög hastarliga ské, og sem einginn hefdi sér í huga leidt, ad ské mundi.

Og hvad skal eg tala um þad, sem á vorum dögum skéd er? Þad sem Endurbót trúarbragdanna, í tvö hundrud ár, upplýst hafdi, leitadist vantrúin vid, á þeirri nærstliðnu hundrad ára öldu, ad nidurbrjóta, svo alls háttar áráfir med frekasta spotti sýndust loksins nunid hafa algjördan sigur yfir Christinnni. En sjáid! ó, þér Jesú Tilbidjendur! þegar sá stóri fjöldi beygt hafdi sín knæ fyrir þeirra nýari tída Baal, og jardarinnar Drottnendur og heimspekíngar höfdu álýktad, ad Jesú Evangélíum skyldi hopa fyrir mannanna vísdómi, og ei framar predikast, hvörki í christnudum ríkjum né á medal viltra þjóda; og þegar menn hrópudu hárri röddu: „þad er heimska og dármenska og pen-

fuga=spillir ad útsenda kénnendur til heidfugja og Tyrkja" og þegar ríkjanna Stjórnendur tóku ad hlýda þessari roddu, þá, rétt í sama bili, uppriſu þaung eiginligu Missións=Félog, sem stofnud vorn af Borgurum og Borgara=konum, og stiptudúst allra heldst af fátækum sosnudum, og ríkuligast styrktust af handverks=monnum, daglaunnrum, Ekkjum og ómyndug=um bornum. Þá rættist þad: „ad sá smærsti vard ad þúsund og þad litla fólk ad mektugu fólki;" þá tóku menn í þeim christnu ríkjum ad meta Gudsord mikils, og hrósa lucku sinni, ad þeir ættu þennan dýrmætá Féſjód. Christi=ligur andi vaknadi í margra hjortum, og menn tóku ad útsenda Kénnendur, sem vóru einfaldir sem dúfur, en slægir sem hoggormar, og tala safnadanna vóx, og þar bárust dýrdligustu fréttir um margra þúsund heidíngja umvendun, sem tóku á móti Evangelio og komust ad raun um: „ad þad er hid eylífa líf, ad þeckja þann einasta sanna Gud og þann hann út=sendt hefir Jesúm Christum." Samt sem ádur brast nú eitt; því í frá þeim deigi, ad manuligt dramb fordum byggja vildi Babylóns turn, hofdu syndugar ættkvíslir ei leingur haft sama túngumál, svo lífsins ord vard ei lesid af þeim, sem annarligar túngur toludu.

Þá skédi þad, ad einn fátækur Sveita=

prestur, í því Bretska ríki, varð var við síns fátæka safnaðar skort á heil. Ritníngu, og var svo frumkvöðull þess að Biblíu=Félag var stofnað. Hvörsu lítið var ei þetta tilefni í fyrstu? hvörsu forsmáð var það ecki af heim=inum? hvörsu biturt spott drógu ei sumir að þess auguamiði? og hvörsu ákáfliga settu sig nockrir móti þess atburðum? og sjá, M. Tilh." þó er spádómurinn meir enn bókstafliga uppfylltur orðinn! Það eina Félag er á 18 árum orðið meir enn að þúsund; af því litla fólki orðið mjög merkugt fólk, eitt högvært fólk, sem erst hefir Jarðríki, og eitt heil. fólk sem eignast hefir ríkið í þeim 5 að=greindu heimsins pörtum; svo það er skéð, sem vér lesum í vorum Texta: „að born hinna fram=andi byggja þess múra og þeirra Kóngar þéna því." Það eina Missións=Félag stiptast eptir annað, og það eina Biblíu=Félag eptir annað, jafnvel af þeim sem nýliga vóru heið=íngjar, já, af sjálfum þeim, sem fórnuðu bræðr=um sínum og systrum og átu þau. Sannliga reynum vér hér, að Drottinn vor Endurlausn=ari, sá voldugi í Jacob, er sá sem frelsar sitt fólk, svo vér getum ecki fyrir=munað vorum vorum, að brjótast fram með það hróp: „það er Drottinn sem lét þetta hastarliga ské, nú,

þá tíminn er kominn, hvørn hann í sinu valdi hefir."

Svo sýnir þá reynslan það sama, jsem sérhvør Christinn fyrir fram vita má, að orð Drottins forgeingur — forgeingur aldúngis ecki, þó himin og jörð forgángi, og hann er með oss alla daga, allt til heimsins enda; og verkar til útbreiðslu síns dýrdliga ríkis „svo þar verða skuli ein hjörð, svo sem þar er einn hyrðir" Og — mínir Tilh. hvílíkur ágjætur þánki

B. já, þánki ríkur af Huggun og Gleði! þetta er það annað atriði, sem eg, eptir loforði mínu, vildi ávíkja.

Nú í Dag, þegar vér höldum hátíðliga endurminníngu Biblíu-Félags vors, sem stofnað var fyrir 5 árum, og undir eins vors Missíóns-Félags, sem stiptað var nærstliðið ár, já, á þessum deigi, er sérhvør, sem hreinskilið hjarta í sögðu tilliti geymir, hlýngaðkominn, til að ausa vatn af huggunarinnar og gleðinnar uppsprettu. Já víst þúrfum vér Huggunar við í dag!

Vér þurftum hennar, þegar vor Félög stofnuðust; þegar svo margir meintu, að Tíðirnar ecki væru hæfar til slíkra Félaga stiptana; þegar sumir drógu gis að því og sögðu: að

það eingan framgáng feingi; og aðrir betri, réðu oss alvarliga til, að bíða enn nú vorkurn tíma; þegar sumir hrópuðu: „vér þurfum vorra eigna og muna með, til lífsins nauðþurfta;“ og enn aðrir sögðu: „þetta er að skipta sér af því, sem ei við mannkémur.“ En sem vér þá þurftum huggunar við, svo þurfum vér hennar enn nú; því inn til þessa dags má heyra sama tal ítrekað; enn=þá eru svo margir, hverjir — þó þeir ecki tali sem hinir töludu :— eru samt hálfvolgir og afskiptalausir, sofa og dotta, og taka sig eingan veginn upp, til að erfiða með í Víngarðinum; já, enn framar gé fast þar nockrir þvílíkir, sem á vissan hátt rétta höndina með til þessa góða verks, en þeirra gjörvalla sinnislag er þó ecki snúið til Guðsríkis útbreiðslu, og allur þeirra lifnaður sýnir ecki, að þeir heyri þeim Herra til, sem endurkeypti þá. Æ! þar er enn nú svo margt móti að berjast og yfir að vinna, og Félag vor, jafnvel þó þau tekið hafi stærri þroska, enn sjálfra vor glæðu vonir spáða oss, eru þau enn nú ærið smá. Og vér — hvað erum vér? hvað værum vér, þó vér sætum við Kóngsins hægri hlið, já, þó vér sjálfir værum Landsins æðstu stjórnendur? vér værum samt eckert nema mold og aska! og í rauninni erum vér Borgarar, sem eingan stóran myndugleika höfum,

án veraldligrar maktar og álits. Að eins einstaka menn af hærri rød hafa meddeildt oss síuum gáfum. Vér, vér erum fáir og lítilmegnandi erfidarar, en uppskéran ofurstór. Nockur hundrud milliónir Manneskja þyrstir eptir Frelsinu, og hrópa: „komid híngad yfrum og hjálpid oss! G. bók. 16, 9.“ En vegurinn er lángur, reisan kostar mikid, og Land vort er fátækt. Svo vér meigum sannliga, med Philippo, freistast til ad seigja: „hvad er þad sem ver orkad fáum, medal svo margra?“ Jó, vissuliga erum vér mjøg þurfugir fyrir huggun. En hvad þurfum vér þá stærri huggunar vid, enn þeirrar, sem liggur í þessum þánka: „þad er Drottinn sem lætur þad ské!“ Vér erum ecki þeir sem erfida, heldur er þad Gud, sem erfidar fyrir oss. Þessvegna þó vér aldrei séum svo fáir og vanmáttugir, já, þó þar stædi øll heimsins makt á móti vorri fyrirtekt, vér meigum samt hafa nóga huggun, því Drottinn er máttugur í þeim breisku; sé hann med oss, hvør kann þá ad vera á móti oss? Hefir hann ecki heitid því, ad þeir sem þreyngja að hans Kyrkju, skuli lúta fyrir henni, og þer sem ecki vilja þéna henni skuli óglæsu sæta? og høfum vér ecki allt híngad til þessa dags séd fyrirheit þetta nágvæmliga uppfyllt? Hefir hann ecki svo opt hrært hjørt-

nu, og varpað sinum heil. ekki í þau brjóst, sem áður meintust aldeilis læst vera? Hefir hann ekki jafnvel um-snúið einum Saul eptir annan, og giørdt þá að útvøldum verkfærum til sinnar þjónustu? Hefir hann ekki og svo opt sagt til mótstødumanna og ofsóknara sinnar Kyrkju, bædi fordum og nú á døgum, hvørsu stoltir sem þeir vóru: „híngað skuluð þér komast og ei lengra!“ já, því sem hann lofað hefir, það efnir hann vísuliga! því hans Orð eru eylíft já og Amen! Og af þessu høfum vér þá fullnóga huggun.

Já vér gledjum oss og vor gledi má vera mikil og frábær. Eda hvað gétur fyrir Guðs børn gledilígra verið, enn að hugsa til þess, að vér erfiðum eptir vilja vors himneska Fødurs, hann ann atburdum vorum, hann er með oss, og géfur blessan sína til þess, sem vér tøkum oss fyrir hendur, í hans heil. nafni.

Reynslan sjálf hefir sýndt oss, að hann alltíð blessaði þvílíkar Fyrirtektir; og með innilígustu ánægju meigum vér minnast þess á þessum deigi, því vor smán Féløg hafa haft þessa fagnaðarfullu reynslu. Vort Biblíufélag hefir ecki einúngis staðið í 5 ár, heldur hefir það, af frívilјugum gáfum haft ríkugliga allt hvað það við-þurfti; það hefir ei þurft að

synja neinum um þá heil. Ritníngu, sem æskt hefir ad fá hana.

Þad. hefir, einkum hid sídstlidna ár, haft merkiligar Inntektir, útdeildr miklum fjølda þeirra guddómlign bóka, og jafnvel styrkt til ad meddeila heidíngjunum ord lífsins; þad hefir og haft þá gledi, ad þess evangeliska Smábóka-Félags rit hafa audgad þad fleiri medlimum og Brødur-Félögum, sem kíppast vid ad efla sálnarna upplýsíngu og Frelsi. Og — hvad-skal eg tala um vort Missións-Félag, sem stofnad var 17da Junii næstlidins árs (1821)? Þad var stofnad á landinn, í einu fátækn Fiskiveri, af fá-einum ónafnkéndum mönnum; og þad var stofnad á þeim tíma, þegar nærstum því hvør madur klagadi yfir þúngum skuldum og fátækt, og á þeim tíma, þegar heimsins vellyst drotnadi enn nú yfir miklum fjølda fólks, og þegar fólkid lángt frá ecki, sem Fólk álitid, brann af Kjærleika til Guds og Náúngans.

Vér stiptudum þá vort Félag, seigi eg, og óskudum meira, enn vér vonudum. Og sjá! Drottinn hefir veitt meira enn vér bádum og gátum skilid. Munum vér hafa þeinkt, ad vort litla Samband mundi innan eins árs verda búid ad fá 250 undirskrifada velgjørara og medlimi, fyrir utan nockyr hundrud, sem í

leyndum niðurleggja gáfur sínar í Missiðus-Bursurnar *)?

Eda munum vér hafa vænt, á því sama tímabili, ad géta adstodad til gamla Testamentisins útleggíngar á grænlendska túngu, og ad géta sendt 2 þúsund bæklínga af einu guðligu riti, eptir hvörju vora brædur í því kalda Nordurlandi í Noregi innilliga lóngadi, og þar á ofan adstod veitt einum Fridarbodu, sem enn nú skyldi þángad sendast, til ad predika Jesú Evangelium fyrir þeim, sem það hingad til ecki heyrdt hafa! Ney, hér verdum vér þess stakliga varir, „ad það er Drottinn, sem hefir látid þetta ské" og vér upplyptum vorri rødd af fegnudi fyrir hertoga vorrar sáluhjálpar, fyrir honum sem setthefir oss til eylífrar dýrdar og til gledi frá einni ættkvísl til annarar! En —

C. hvörsu sterka upphvatníngu hofum

---

*) Þessar Miss. Bursur, eru læstir Smákassar, sem Fólk, í ýmsum húsum, brúkar, til þess, eptir hendinni, ad leggja í þær lítinn Skérf, er það ber sig, vid og vid, ad draga til muna, til ad géfa til þessara heil. Stiptana. Þeim er aldrei upplokid, fyrr enn allt í einn, í vetta vidurvist, og er þá talid og úttekid það innlagda.

vér þá ecki hér af, til ad medverka til Guds ríkis útbreidslu? Hér um er þad, sem eg enn nú vil med fám ordum tala.

Sá sem erfidar, og veit ad hann ná muni augnamidi sínu, mun víst ecki leggia hendur í skaut, og eingan-veigin örvænta; heldur finnur hann sig síféldliga meir og meir knúdan og hvattan til ad gánga veginn á fram med diörfúngu og dugnadi; því þess ákafligar sem hann erfidar, þess nær veit hann sig vera takmarkinu.

Christ. Tilh! Ef Gud er med oss, hvör kann þá ad vera móti oss? ef sá eylífi Christur er í verki med oss, hver af öllum helvítis mögtum, orkar þá nockud, til ad nidurbriota þad verk, sem vér, med hans adstod, byrjad höfum? Ney, — sá sem sálr, hann mun ad líkindum uppskéra. Og hvílík dýrdlig upp-skéra er þad, sem vér eigum í vændum! hvílíkt sælufullt takmark, ad hvörju vér skundum! já, þad eru ódaudligar, dýru verdi keyptar sálir, sem vér viljum umvenda og frelsa; þad er vors elskuliga födurs vilji, sem vér ættum ad framkvæma; þad er nád hans hér, og eylíf Sáluhjálp sídar, sem vér munum úr býtum bera. Látum þá mæta oss, hvad sem vera vill! verum alltíd hughraustir og gladir, og erfidum

med öruggu skapi. Þarfyrir, Brædur og Systur í Dr! gjörid þá gott og þreytist ecki; á sínum tíma munud þér óþreyttir uppskéra! Ad eins óttastú ecki, þú hin litla hjörd; þad er þínum Födur þóknanligt ad géfa þér ríkid, því þad er víst hans vilji, ad allir skuli komast til sannleikans vidur-kénníngar og verda hólpnir. O einn sælufullan þánka! þú átt, þú gétur, þú skalt gjöra hans vilja, sem elskadi þig ad fyrra bragdi. Fyrir Kjærleikan skalt þú honum sameinadur verda, hann í þér, og þú í honum, og eingin skal fá þig svíptan þínum fögnudi. Képpist þessvegna áfram til ad ná takmarkinu! einginn letjist, né láti hugfallast! Vegurinn liggur til himnaríkis! „óttastú ecki, mitt Barn, þó vid séum fátæk ordin“ sagdi gamli Tóbías fordum, „því vid höfum enn nú mikid, ef vid óttustum Gud.“ Svo má eg nú og svo á þessum deigi seigja, einginn óttist fyrir ad gjöra gott, af því litla sem hann hefir! edur ad leggja sér láuad pund á mángarans bord! Einginn seigi: eg á eckert! því vér höfum enn nú allir mikid, ef vér óttumst Gud. Ísraels kvennfólk fórnadi fordum gullskrauti sínu, fyrir þess mállausa Skúrgods sakir (2 M. B. 32, 2. 3); sen vér höfum enn nú ecki géfid í burtu vort Skraut, fyrir þess lifanda Guds skuld. Og þad hafa þó adrir

gjørdt á vorum døgum. En ef vér nú eckert start eigum, eigum vér þá ecki samt eitt hvørt sisfvirdi í ødru, sem vér géfid gétum? Fátæk-ar Eckjur géfa þó, hér og hvar, enn nú, sinn litla skérf.

Ellegar ef vér værum svo fátækir, ad vér ecki ættum hid allra minsta til ad géfa, gjæt-um vér samt ecki uppfrædt, áminnt og yfir-talad adra af vorum brædrum og systrum, til ad gjøra þad? Gjetum vér ecki kunngjørdt miskunsemdir Guds vid oss og adra, á þeim stærri edur minni mannfundum? Þad gjøra þó sumar manneskjur annarstadar, sem trúadar eru. Eda gétum vér ecki ad minsta kosti bedid, ad Drottinn útsenda vilji fleiri erfidara í sína stórn kornskéru, sem blasir fyrir augum vorum fjær og nær? Þad gjøra þó óteljandi Guds børn hér og þar, og þad hefir Frelsari vor bodid oss ad gjøra, og bæn þessi ávinnur ríkuliga bænheyrslu. Nú, svo gjøri þá hvør einn, hvad hann megnar!

Já látum oss alla í einum hóp bidja af hjartans fyllingu: O Drottinn, þú uppskér-unnar gódi og mikli Herra! útsend þú sjálfur Erfidara í þína stórn kornskéru, trúlynda þjen-ara, sem brennandi sén í anda, til ad útbreida dýrd þína og til ad frelsa þær dýrkeyptu sálir!

Ó, Drottinn, Drottinn! géf oss öllum samau giruð og krapta, til efllugar þessu stóra augnamiði! Blessa þú þau Biblíu-Félög, og fleiri-slags gudlig Samtök, sém hér og annarstadar stofnuð eru, og géf að fleiri þesshóttar viðbætist! Blessaðu þá sem senda, og þá sem sendir eru til að útbreida þitt orð, og blessaðu svo þá, til hvörra þín orð og þínir þénarar sendir verda! Já, blessa oss alla í tímanum hér, og í eylífðinni síðar! Bænheyr oss, þrí-eini Gud, fyrir vors Frelsara Jesú Christs sakir! Amen!

---

Svo hafa þá m. Lesendur feingið að sjá eina af þeim ypparligu rædum, sem á þeim Gudligu Biblíu- og Missions-Félaga-fundum haldnar eru, og vona eg þeir finni hvílíkt andlígt líf og krapt þær í sér geyma.

Aður hefi eg sagt, að þetta nýnefnda Missións-Félag í Danmörku fari dásamliga varandi, enda þad í byrjaninni sætti miklum örðugleika og mótföllum. Í fyrstu Stiptun þess þ. 18 Maii 1821 teiknuðu sig, sem medlimi, að eins 62 persónur af Almúga-fólki; nú eru þeir orðnir um 300 opinberir; fyrir utan þá mörgu, sem heimugliga géfa í Missi-

óns Bursurnar; hvor adferd mikla blessun óvinnur.

Inntektir þessa Félags, vóru

| | Navneværdie. | Rede Sølv. |
|---|---|---|
| 1tu árid uppá | 860 Rbd. 85 ß. og | 48 Rbd. 12 ß. |
| 2di árid — | 1336 — 38 ß | 100 — 45 ß |
| 3di árid — | 1463 — 86 ß | 181 — 90 ß |
| Summa | 3661 Rbd. 17 ß. | 330 Rbd. 51 ß. |

Allareidu 1ta árid hafdi Félag þetta kostad til Bibliuprentunar uppá 150 Rbd.; til útgáfu 2000 svokalladra Barna-Biblia á Grænlendsku 265 Rbd. 40 ß., og tillagt þeirri grænlendsku Missión Brædra-Safnadarins 200 Rbdlr.

Sédan hefir þad þó, eptir sem þess Inntektir jukust, gjørdt enn nú meira ad verkum. Eylífur Gud efli bædi Félag þetta og øll onnur, sem til dýrdar hans heil. nafni og uppbyggíngar hans Kyrkju, þéna, svo hans Fyrirheit um útbreidslu sinnar Kyrkju um allan heiminn, mætti sem allra fyrst rætast og uppfyllast!

Nú vil eg framveigis, í Guds nafni, nockrar sannferdugar frásagnir fyrir sjónir leida, er sýni og sanni þá mikilvægu blessun, sem Biblíu-Missións- og enda Smárita-Félag verkad hafa í heiminum, med ad umvenda, ecki

einúngis einstaka manneskjum, heldur jafnvel heil-
um Søfnudum, þó einkum á medal heidinna þjóda.

1) Í því Bretska Ríki, hvar med ómælan-
nilligri ákéfd erfidad er fyrir útbreidslu Biblí-
unnar, medal allslags þjóda og túngumála undir
Sólunni, finnast þó ýmsir í bland, sem eru
hálfvolgir og afskiptalausir, í tilliti þessa mik-
ilvæga efnis. Á einum Biblíu-Félags fundi,
hvar haldnar høfdu verid nockrar stuttar, en
krøptugar, upphvatníngs rædur til Biblíunnar
vina, stód prestur einn upp, eftir þad rædunum
var lokid, og þackadi fyrir þá uppbyggíugu,
sem þær gjørdt hefdu, en hreifdi þar hjá ósk
þeirri, ad menn sídar, nær slíkar rædur halduar
yrdu, vildu benda talinu meir ad þeim, sem
kynnu ad sønnu nálægir vera, en vera þó eingir
Biblíu-vinir, heldur jafnvel forsmá hana, í
hvørra tølu hann sjálfur, inn til tveggja ára,
kvadst verid hafa.

Hann sagdi sídan frá því, ad jafnvel hann
ádur hefdi prestur nefndur verid, hefdi hann
þó lítt kjært sig um Biblíu, trúarbrøgd og
trúarbragda útbreidslu medal fólksins. Hann
sagdi verid hefdi ydja sín, ad fara á jagt med
lystugum mønnum, eda vera í gledi-samkvæmum
Ríkismanna, sitja til bords med þeim og vera
sá fjórdi madur vid spilabordid, og þetta hefdi
geingid eina viku, eptir adra. Hau qvadst

verið hafa réttur heimsmaður, og skemtinn stallbróðir, sem einúngis hefði hyrðt embætti sitt svo, að sér yrði ei tiltalað eptir lögum, og settur af ráðsmenskunni. A einni jagt eður dýraveiðar=för reisti hann eittsinn í gégnum nágranna=sókn sína, hvar hann á Kyrkju=port=inn qvaðst lesið hafa eitt uppfest Skjal, sem bauð mönnum á Samkomu, er haldast átti hjá Sóknarinnar Presti, næsta dags, til að sjá Biblíu=Félag stiptað. Nú af því hann sagðist hafa fallið i forundrun yfir því, að menn skyldu halda svo mikið af Biblíunni, dróg einslags Nýúngagirni hann, til að vera um nóttina þar í bænum, til þess að géta komið á samfundinn. Þetta skéði og. Ræður þær, sem við þetta tækifæri haldnar vóru, þreyngdu sér djúpt inní hans hjarta. Hann fann nú til þess, að hann ecki hefði áður verið, það hann hefði átt að vera; varð því hrólligur, flýtti sér heim til sín, vildi leggja sig til svefns, en svefninn flúði frá hans legurúmi. Loksins á=setti hann sér að játa sína Synd, og snúa sér á veg betrunarinnar. Hann reisti því til baka, til þess ærnverða Prests, í hvörs húsi hrósemi hans vaknað hafði, opinberaði hönum áugur hjarta síns, og beiddist hans bróðurligu vegleiðslu, hvörrar hönum var ei heldur synjað.

Af því hrigð sú, sem er eptir Guði,

hafdi innekid hann, þá verkadi hún umvendun til sáluhjálpar, hverrar eingan ydrar 2 Cor. 7, 10. Þess vegna, svosem Prestur þessi hafdi ádur verid strúr hirdir, svo gjördist hann nú eptir þetta stakligt munstur eins réttsinnads og christiligs sálusorgara, svo hann var bædi elskadur og virdtur af söfnudi sínum, og vard hönnum til stærstu uppbyggíngar.

2. Á einum stad í Englandi, geingu nockrir æruverdir Biblíu-Félagsins medlimir um kríng, til ad komast eptir andligri naudþurft innbyggiaranna og létta henni af þeim, líka til ad vita, hvört Biblíur þær, sem ádur vóru burtugéfnar, brúkudust af eigendunum regluliga.

Þá vildi svo til, ad þeir fundu fátæka Konu eina, sem mörg börn átti, og bjó vid stærsta skort á öllum lífsbjargarmedölum. Þeir leitudu þá eptir orsökinni, og komust ad raun um, ad madur hennar, sem þó var ecki svo slæmur í öllu, var mesti dryckju- og svallmadur, sem eyddi öllu því, sem hann innvann, svo ad Konan og börnin hlutu opt ad lída húngur. Eptir þad mennirnir höfdu nú upphvatt hana til ad ávinna mann sinn med kjærleika, og bédid hana, ad setja von sína til Guds nádar, spurdu þeir hana, hvört hún ætti eckert Guds ord sér til huggunar í neydinni? Hún

svaradi: Ney; og sagdist vera allt of fátæk til ad géta keypt sér eina bók. Þeir gáfu henni sídan mjøg prýdiliga innbundna Biblíu, og fólu hana svo Guds náð á hendur. Dag-inn eptir sá madur hennar þessa føgru bók, og spurdi med forundrun: „hvadan hún væri komin?" en vard þó enn meir frá sér numinn, þegar hann heyrdi, med hverju móti Kona sín hefdi feingid hana. Einslags nýúnga-girni knúdi hann nú til ad lesa í henni. Og sem hann gjørdi þad optar, tók hann ad sjá nockud, sem hann ecki hafdi ádur sjed, og finna til nockurs, sem hann ecki hafdi ádur fundid. Biblíu-Lesturinn vard hønum svo skjær, ad hann umvendti hønum frá villu hans vega; svo hann øldúngis endur-fæddist til ad verda nýr manneskja. Nockrum tíma þar-eptir heimsóktu ádur-nefndir herrar þá fátæku Konu, og fundu, sér til gledi, stóra umbreytíngu á hennar heimili. Þegar madur hennar, sem þá var heima, heyrdi ad þad vóru þeir sømu herrar, sem ádur høfdu flutt Guds-blessanina í hans hús, stód hann upp, tók í hendur þeirra, þackadi þeim, og bad Gud ad launa þeim øllu gódu fyrir Biblíu-gjøfina; þar eptir tók hann upp hjá sér eitt Ríkisort, og bad þá ad þyggja þad til Biblíu-Félagsins, og skrifa sig fyrir 1 Ríkis orti á hvørri viku eptirleidis. Ney, svørudu

þeir, þú ert fátækur erfidismadur; þad er allt of mikid af þér ad géfa þetta." Láttú þá ríku géfa svo mikid; en, géfdú, ef þú gétur og villt, 1 Ríkisort árliga. Þar til svaradi madurinn: eg gét vel géfid 1 Ríkisort á viku hvørri, og verid þó hvørn Laugardag 5 Ríkisortum ríkari enn ádur; því eg innvinn á viku hvørri, med erfidi mínu 6 Ríkisort, af hvørjum eg átti ecki ádur 1 ß. ad viku lidinni, en nú þvert á móti, flyt eg þaug øll heim til mín og skortir eckert; heldur jafnvel hefi nockud afgángs. Gjæfi Gud, ad Biblíunnar útbreidsla, vor á medal, gjæti framleidt margar líkar verkanir! þá mundu óteljandi tár af-þerrast, og hugsýki út af líkamligum skorti stansa! En, ókt sú mun þó einhvørn-tíma uppfyllast, því Drottins ord kémur ecki tómt til baka, eins og hann fyrir Spámannsins Esajæ munn heitid hefir, seigandi: eins og regnid og snjó-hrinn snýr ecki til himinsins aptur, fyrr-enn þad hefir vøkvad jørdina og ávaxtarsama gjørdt, eins skal mitt ord ecki koma tómt aptur, heldur gjøra þad sem mér velþóknast Es. 55, 10.

3. Einn christiligа sinnadur engelskur Læknir hitti eitt sinn, á reisum sínum, einhvørn hinn ríkasta Gydíng á Malta, sem ecki einúngis átti høndlunarhús þar á Eynni, heldur

og svo i Asju og Afriku, og lét hondlunarleßir sínar reisa allt inn til China. Læknirinn gaf Gydíngi þessum nockur Smá-rit, þess innihalds, ad vekja athugasemi Gydínga um þad, ad Messías væri kominn og þad væri Jesús Christur. Gydínguriun tók Ritin í hønd sér, bladadi nockud í þeim og kastadi þeim sídan aptur til hans, med þeim ordum: „þessi Rit kunna ad vera gód fyrir yckar Gydínga á Englandi, en oss hér eru þaug til einkis gagns". Læknirinn bad hann samt, ad hann ad minsta kosti vildi stínga þeim í vasann, hvad hinn og loksins gjørdi. Þegar hann nú sídar meir las þó í þeim, vard hann svo hrærdur af innihaldi þeirra, og Guds-nád opnadi svo hjarta hans, ad hann vard fús á ad lesa hid Nýatestament, í því arabiska túngumáli. Sídan eptir þad, hitti hann eptir Guds rádstøfun, einn Slípara á førnum veigi, vid hvøru hann kom í samtal um trúarbrøgdin, og þessi frómi og upplýsti madur verkadi svo kroptugliga á hjarta Gydíngsins, ad þessi dvaldi hjá hønum nockrar stundir í einu, kom til hans opt, og skyldi vid hann í hvørt sinn med hrærdu hjarta.

Loksins vidurkéndi hann af alvørn, ad Jesús Christur væri sá sanni Messías. Eptir þessa hans umvendun, flutti hann síféldliga med sér nockrar bækur af arabiskum Nýatestamen-

entum, til þess ad géta, vid tækifæri, útdeildt þeim. Þó lét hann sér ecki nægjast þar med, heldur tók hann uppá sig þad ómak, ad útbreida trúna á Christum, med munnligri kénníngu. Fyrir nockrum tíma skrifadi Sydíngur þessi til þeim engelska lækuir, ad hann, á reisum sínum gégnum Arabíu, og í þeirri þar nálægu svo nefndu heidnu Gallilæu, hafi, medal þeirra Christnu, fundid þvílíkan skort á uppfrædíngu, og stóra fákjænsku í trúarbrøgdunum, ad þad mætti ótrúligt sýnast. Hann qvadst, til dæmis, hafa spurt þar verandi Christna: „hvørjir þeir væru? þeir svørudu: vér erum christnir. Hann spurdi þá: hvad þeir meintu med því, og hvør væri þeirra trú og von? þad vissu þeir eckert um, en søgdu ad Fedur sínir og Forfedur hefdu christnir verid, og þeir væru þad líka svo; en frekari þeckíngu þarum høfdu þeir ecki. Um þá heil. Ritníngu vissu þeir eckert ad seigja". Í þessu landi qvadst Sydínguriun þessvegna hafa útdeildt 12 Biblíum á arabisku; og þær hefdu, fyrir Guds nád, vakid svo stóra laungun eptir sannleikanum, ad fleiri enn 30 þúsund manneskjur hefdu, af þessum 12 Biblíum, feingid ad heyra Guds ord. Hann bad nú Lækuirinn í bréfi sínu, ad hann svo fljótt, sem møguligt væri, vildi senda sér Biblíur á ara-

bisku, til þess ad hjálpa þar med til útbreidslu Jesú trúarbragda.

Eittsinn kom Gydíngur þessi til Eyarinnar Rhódus, sem ad mestu leiti er bygd af Grickjum, sem hafa Grísk og Kathólsk trúarbrögd, en eru undir tyrkneskn herradæmi; hér géck hann á þad stóra torg, hvar fjöldi manna var saman kominn til ad kaupa og selja. Þetta tæki=færi notadi hann sér, sem annar postuli, safnadi flock manna kríngum sig, og las fyrir Fólkinu úr þeirri arabisku Biblíu, er hann med sér hafdi.

Þetta gjördi svo blessada verkun hjá Fólkinu, ad þad, vid þess dags lok, bad Gydínginn innilega, ad koma til sín deiginum eptir, til ad halda áfram Fyrirlestrum sínum. Gydíngurinn gjördi eptir ósk þeirra, og dag eptir dag, hafdi hann fleiri og fleiri tilheyrendur. Sá fyrsti Fyrirlestur hafdi allareidu gjördt svo stór áhrif á hugskot manna, ad fregnin þar um hafdi borist til Paskjins, edur þess tyrkneska yfirmanns á Eynni; hann lét því Réttarins þénara sækja Gydínginn midt í Fyrirlestrinum, og flytja hann til sín.

Þegar þvílíkt Fyrirkall skédur í þeim ottómanniska londum, þá er þad optastnær ad álíta, sem einn daudadóm. En Gydíngurinn, sem á chrisiiliga vísu var búinn vid öllu, hug=

styrkti sig, með trausti til Guðs og hans krapt-
ugu aðstóðar, hvørs Evangelíum hann boðaði,
og fylgdi með hugrecki þeim sem leiddu hann
til Pastiins. „Hvað er það sem eg heyri af
þér?" sagði þá Pastinn til hans — „hvað
fyrir bók er það, af hvørri þú heldur Fyrirlestur
fyrir Fólkinu, svo það þyrpist til þín í þúsunda
tali? Menn seigja mér, að þú sért að kénna
út af henni hluti þá, sem stríða á móti vorum
heil. trúarbrøgðum, móti þeim stóra Spámanni
Mahómet og móti landsins løgum, og þú veitst
að þvílíkur misgjørníngur vinnur til dauða."
Gyðíngurinn svaraði: „Bók sú, úr hvørri eg
les fyrir Fólkinu, er hin svokallaða heil. Ritn-
íng eður Biblía; hún inniheldur eckert móti
trúarbrøgðunum og Spámanninum Mahómet;
því hún kénnir þaug hreinusta og heiløgustu
trúarbrøgð, og Spámannsins nafn er hvørgi að
finna í heilu bókinni; hún inniheldur og eckert
móti Yfirvaldinu og Landsins løgum; miklu
heldur skipar hún hlýðni og undirgéfni við
hvørutveggja, og ef allir þínir undirsátar løgðu
sig eptir bók þessari, og fylgdu hennar lærdómi,
mundi einginn hafa betri og trúrri þégnara, enn
þú. Þar eptir las hann hönum orð Postulans
Páls (Rom. 13, 1—7) og nockur vers af
predikun Christs á fjallinu (Math. 5), og seigir
síðan: en svo þú ecki haldir, að eg tali ósann-

indi, þá leyfdú mér þá gledi, ad meiga géfa þér eina af bókum þessum, og sídan afhendti haun Paskanum Biblíu þá, sem hann hafdi hjá sér, á arabisku túngumáli. Paskinn tók á móti henni, og sagdi: „fardú nú burt í þetta sinn!"

Gydíngurinn notadi sér þessa Paskans gódu vidtekt, til þess enn nú optar ad predika Evangelíum fyrir Fólkinu, sem lángadi mikiliga eptir hans uppfrædíngu. Og Gud blessadi hans vidsleitni svo, ad hann féck hérum 6 þúsund tilheyrendur, og stiptadi mikla blessun.

Ad nockrum tíma lidnum lét Paskinn kalla Gydínginn aptur fyrir sig. Gydíngurinn heyrdi, í því hann géck fram hjá einum Sal, ad þar var verid ad lesa inni, med hárri røddu; hann géck því nær, og heyrdi greiniliga røddu Paskans, sem var þá ad lesa, úr Biblíunni, søgnna um þann fortapada son, en hætti stundum í milli, og taladi. Paskinn lætur sídan Gydínginn koma inn, og sem hann kémur inn, sjer hann þar søfnud af tyrkneskum høfdingjum, í mid hvørra ad Paskinn situr á skrautligum stóli, med 4 þrælum bak og fyrir, og er ad lesa í Biblíunni fyrir þeim samankomnu. Þá sagdi hann til Gydíngsins: „eg hefi ánægju fundid í bók þinni, og hún gédjast mér svo vel, ad eg á hvørjum morgni, les nockud úr

henni og útlegg fyrir fólki mínu. Eg hefi síðan þú gafst mér bók þessa, lesið kostgjæfiliga í henni. Þar er einginn efi á, að Jesús Christur — um hvern hún einkum höndlar, — hlýtur sannliga vera stór Spámaður, nærri því svo stór sem Mahómet; og að hann hafi verið sendur af Guði, sýndu teikn hans og kraptaverk, sem öyggjanliga eru sönn, þar hann framdi þaug öll opinberliga. Já, það er í sannleika svo! Eptir það bað hann Gyðinginn, að hann vildi senda nockrar Biblíur, til eins síns Vildarmans, hvers nafn og aðsetur hann tilkynti honum, og sagði hann, skyldi vera óhræddur, að honum yrði, það ei að sök gefið. Þessi maður væri einhver sinn trúlyndasti þénari, og hann vissi fyrir víst, að þessi ágjæta bók mundi gjöra honum mikla gleði.

4. Enn nú önnur markverðug historía skéði, áhrærandi þennan sama Gyðing. Sonur eins Passa í Persín hafði gjört upphlaup móti föður sínum, og þvíngað föður sinn, til að draga í orrustu út á móti sér. Sonurinn tapaði sigri í orrustunni, og hlaut að flýa.

Á Flóttanum kom hann til eins Staðar í Gricklandi, hvar hinn ríki Gyðingur hafði eitt höndlunar-hús, og var rétt í sama sinn heima. Sá úngi persíski maður heimsókti hann, og merkti, að á borðinu í húsi hans lá Biblía.

Í því hann opnadi hana, hrópadi hann fullur af forundrun: „O, það er sú sama bók, sem eg sá hjá Födur mínum þrem dögum ádur, enn eg burtu reisti!" Orsökin var: Biblían var í samaslags bandi, og med samaslags prenti; þessvegna héldt Printsinn, það væri bók Födur síns. Gydíngurinn sagdi honum þá: ad þetta væri sú heilagasta bók; sú elsta uppsprettu sannra trúarbragda; hann qvadst eiga enn nú fleiri þesshátter Bækur, og leiddi hann inn eitt hús til hlidar, og sýndi honum ýmsar fleiri útgáfur heilagrar Ritníngar, sem vóru misstórar; en Printsinn tortrygdi allar þessar, og héldt ad adeins sú eina útgáfa væri hin sanna Biblía, þar hún væri svo ad ollu lík Biblíu födur síns. Gydíngurinn gaf honum þá þessa somu, og upphvatti hann til ad lesa í henni. Þetta var hid nýa Testament í arabisku máli, hvert Fadir hans hafdi líkliga feingid úr hondlunar-lestum þessa ríka Gydíngs, því hann sendi þaug med þeim í allar heimsins álfur. Þegar nú Printsinn, eptir Gydíngsins upphvatníngu tók ad lesa nýa Testamentid kostgæfiliga, vard hann svo uppvakinn, og Christindómsins sannleiki þreyngdi med slíkri makt í gégnum hjarta hans, ad hann lét skýra sig og gjördist Jesú Safnadar-limur. Undireins og

nú ad fadir hans heyrdi, ad hann var geinginn til christiligrar trúar, sætti hann sig vid hann, gaf hønum árliga Pensíon til uppheldis, og innsetti hann aptur til síns erfda-rettar, sokum þess hann sagdi: ad hann þyrfti nú ecki framar ad óttast Son sinn, þar hann væri christiinn ordinn, þvi hann hlyti þá endiliga ad vera ordinn betri manneskja, enn ádur.

5. J Austur-Indíum er einn flockur medal heidíngjanna, sem Bramínar nefnist, er hafa á sér mikid állt fyrir heilagleika sinn. En af því þeir þeckja ecki þann einasta sanna Gud, þá leitast þeir vid, med allrahanda útvortis háttum, med mørgum þúngbærum ydrunar-plástrum, og óheyriligustu fyrir-tektum, ad ávinna sér nád afguda sinna, sem þeir tilbidja. Medal Bramína þessara géfast þó þeir, sem hreinskilnir eru, og sem af alvøru eru hugsjúkir um velferd Sálar sinnar.

Hollfkur einn, ad nafni Anandereyer, fór fyrir fám árum, til eins annars eldri Bramíns, sem var í háum metum fyrir sinn heilagleika, og spurdi hann: „hvad skal eg gjøra svo eg hólpinn verdi?“ Sá gamli Bramín sagdi hønum, ad hann hlyti ad lesa eina vissa bæn fjórum hundrud þúsund sinnum. Nú tók hann fyrir sig þessa mædusømu athøfn, og eyddi þar til hálfu ári í einu afguds-musteri, hvar

med hann undireins lagdi á sig margar pínandi ydrunar=æfíngar. En það fór fyrir hönum, eins og spámadurinn Esajas seigir: „hann vóg út sína peninga þar, hvar eckert braud var ad fá, og kostadi erfidi sínn til þess, sem ei gat sadt hann.“ (Es. 55, 2). Hann fann enn nú ecki frid né ró fyrir sína ángur=bitnu sálu: Fyrir þá skyld snéri hann sér til eins kathólsks prests, og spurdi hann: „hvert hann vissi ecki, hver þaung sönnu trúarbrögd væri?“ Presturinn féck hönum þá nockrar christiligar bækur, af hverjum hann féck þá sannfæríngu, ad Jesús Christur vori heimsins Frelsari. Þó vórn þar nockur atridi í lærdómi þeirrar kathólsku kyrkju, sem ecki gátu fridstillt hann. t. d. ad haun, fyrir utan þann sanna Gud, ætti ad tilbidja bílæti, og rækja ymsar hjátrúarfullar ceremoníur, gédjadist hönum ecki; og med því nockrir kathólskir Prestar höfdu sjálfir sagt hönum, ad þeir prótestantisku Christnu á Tranqvebar, stædi á því, ad sín trú hreinni væri, ad þeir hefdu útlagt Biblíuna og hefdu eingin bílæti, þá reisti hann til Tranqvebar, og komst í kunníngskap vid Doct. John og hina adra Missíons presta þar á stadnum. Hann héldt sér þar uppi, í 4 mánudi, taladi dagliga vid Prestana, og rannsakadi heil. Ritnínga. A stutt=

um tíma lærdi hann þad tamúliska túngumál (sem nockud var líkt módur-máli hans), til þess ad géta lesid Biblíuna, sem allareidu útløgd var á tamúliskn, og tók sídan Skýrn og Christni, eptir próteſtantiskri reglu. Sídan hjálpadi hann til ad útleggja Ritníngnna á sitt egid módurmál, og yfirgaf Fødur og Módur, Brædur og Systur, hús og akra, til þess ad géta bodad Jesú Evangélíum sínum heidnu landsmønnum.

Hvílíka Eptirþánka meiga nú ecki Frásøgur þessar og þeim líkar — sem margar eru — hjá oss vekja? Hér sjáum vér —

1. hvílíkan Sigur heil. Ritníng feingid gétur yfir allra þeirra hjørtum, sem hana réttiliga brúka; bædi munu-kristinna, eins og þaug fyrstu tvø dæmin sýndu, — og líka svo Gydínga, Tyrkja og Heidíngja, hvad þaug þrjú sídari sønnudu;

2. hversu ad heidnar þjódir gjøra nú skømm til margra kristinna, sem Ritníngana hafa; svo þegar þessir nærri útskúfa henni frá ser — sumir af forakti og sumir af hyrduleysi — taka nockrir hinna (þegar þeir géta þeckt hana) móti henni, med hjartanligri girnd og gledi;

3. hvílíkt Gódverk þad má í Guds augum vera, ad hjálpa til útbreidslu þessarar

blessudu bókar um veröldina, og gjöra þad af gódu hjarta, svo vel sem á annan hátt ad styrkja til Christindómsins útbreidslu.

Þad er óskiljanligt, ad sá sem geymir nockurn sannan neista af Guds ótta í brjósti sér, finni ecki, vid ad í-huga þetta, heil. girnd hjá ser tendrast, til ad fara og gjöra slíkt hid sama!

* * *

Hardla nafn-frægur madur á þeim nýari tímum, Erskine, sagdi opinberliga og djarfliga í því Engelska Parlamente, nær. mikid reid á ad taka málstad Christindómsins: „Þad játa eg hér frjálsliga fyrir öllum, ad eg hefi mestu mætur á christiligri trú; ecki af uppeldis-hleypidómi, heldur fyrir eptirþánka og rannsókn á fullordins árum. Sú christina trú er mín huggun í lífi og dauda!"

* * *

Þess mikla lærda manns v. Hallers sídarsta bæn, sem ritud fanst í dagbók hans 4 Dec. 1777, hljódadi svo: O, þú stóri miskunnari! eg varpa mér í þitt skaut; þú hefir alla æfi mína sýnt mér stærstu þolinmædi og vægd,

Sýn mér nú þá sömu náð, nær eg mæta skal fyrir þínum Dómstóli! O, minn Frelsari! vertú á því óttaliga augnabliki minn talsmaður og meðalgángari! Afreka mér náð, hjá þínum og mínum himneska föður! Æ, veit mér aðstoð þíns Anda, að hann beini mér leið í gégnum dauðans óttaliga dal, að eg, sem þú, minn Endurlausnari! géti þá, með mínum deyandi vörnum, sigri-hrósandi í trúnni á þig, hrópað: það er fullkomnað! Faðir, í þínar hendur fel eg minn Anda!

* * * * * *

Sá nafnfrægi Böerhave hrópaði á sinni banasæng: O, hvílíkur er Sigur trúarinnar! O, Guðs kjærleiki er sannarliga sterkari enn dauðinn, og máttugri enn helvíti! Hans glæður ern yfrið heitar! þær eru þvílíkur guddómligur logi, sem það sterkasta pínsla-flóð og stríðasti kvala-straumur megnar ecki að útslöckva! O, sæll er sá, sem þeirrar luckn nýtur, að lifa og deya í slíkri tilfinníngu!